# Flóttamennirnir frá Víetnam 8

*Arðrændir og kúgaðir allra landa - sameinist!*

VERKALÝÐSBLAÐIÐ

Málgagn Einingarsamtaka kommúnista (marx-lenínista)

17.tbl. 12.9. - 26.9. 1979 Sími 28962 Verð kr. 200.

## Niðurskurður á Ríkisspítulunum

Verkalýðsblaðið hefur að undanförnu gert nokkra grein fyrir þeim sparnaðaraðgerðum sem fyrirhugaðar eru í heilbrigðiskerfinu. Nú liggur fyrir að í þeim felst m.a. að ætlunin er að fækka starfsmönnum Ríkisspítalanna um rúmlega 280 stöðugildi. Inni í blaðinu er fjallað nánar um þessi mál og m.a. rætt við Pál Sigurðsson ráðuneytisstjóra, formann Stjórnarnefndar Ríkisspítalanna.

4-5



Þórður Björnsson

# „Við teljum rétt að reyna frjálsa samninga“

**Viðtal við Þórð Björnsson, varaformann Grafíska sveinafélagsins**

Verkalýðsblaðið náði tali af Þórði Björnssyni, varaformanni Grafíska sveinafélagsins. Við spurðum hann hver staða málsins væri nú.

Þ.B:" Staðan nú er jafnslæm og í upphafi. VSÍ bauð 3% launahækkun, en við vildum ekki sætta okkur við það. Okkar krafa var samninganna í gildi. Þetta fór síðan allt í járn.

Þorsteinn Pálsson íaði að því, að réttast væri að setja málið í gerðardóm. Það hefði þýtt 3% fyrir okkur, sem við sættum okkur ekki við, auk þess sem við teljum rétt að reyna frjálsa samninga.

Við sættum okkur ekki við að dómar verði framtíðarlausn á kjaramálum verkafólks."

3

## Opið bréf til Sigurðar Harðarsonar formanns skipulagsnefndar Reykjavíkur

## POTTÞÉTT SKIPULAG, SIGURÐUR?



4-5



Þegar tíðindamaður blaðsins var á ferðinni í Blaðprenti stóðu vélarnar hljóðar. Það er verkfall. Grafískir prentarar þurfa stuðning því andstæðingurinn er sterkur. Styðjum þá!

**Björn Þórhallsson, formaður stjórnar Dagblaðsins er einnig formaður Landssambands íslenskra verslunarmanna**

## „Ákvörðun stjórnarnefndar ríkisspítalanna óbreytt“

**Segir Páll Sigurðsson ráðuneytisstjóri**

Flestar deildir ríkisspítalanna eru reknar með fleiri stöðugildum en heimilt er. Fækkun niður í heimilaða tölu mun þýða í besta falli versnandi þjónustu og í versta falli lokun deilda. Forystumenn heilbrigðismála stefna fullum fetum að fækkun niður í heimilaða tölu stöðugilda,þ.e. verri þjónustu og lokun.



4-5

Páll Sigurðsson

## Styðjum Grafíska sveinafélagið

2




Útgefandi: EIK(m-l). Pósthólf 5186 Reykjavík.
Ábyrgðarmaður: Albert Einarsson

# Styðjum Grafíska sveinafélagið

Grafíska sveinafélagið (GSF) hefur gengið fram fyrir skjöldu í baráttu verkafólks gegn árásum á kaupmáttinn og samnings- og verkfallsréttinn. GSF tekur nú upp þráðinn, þar sem farmenn slepptu honum - og við erum reynslunni ríkari eftir þá deilu.

Ein af forsendum þess að atvinnurekendum og ríkisstjórn tókst að brjóta farmenn á bak aftur, var mikil og öflug áróðursherferð í öllum helstu fjölmiðlum landsins. Farmenn voru rúnir stuðningi og í framhaldi af því voru sett lög.

Við skulum vera undir það búin að svipað verði reynt á nýjan leik. Staða GSF er þó betri, bæði vegna þess að nú dugir ekki lengur tuggan um hálaunamennina, svo og það að nú getur stéttarandstæðingurinn ekki notfært sér dagblöðin.

En þetta breytir ekki því að GSF þarf mikinn og öflugan stuðning. Hann þarf fyrst og fremst að vera tvennskonar. Annars vegar þurfum við að leggja mikla krafta í að kynna málstað þeirra, reyna að afla þeim sem mests stuðnings meðal fólks, taka til umræðu stuðning við GSF á stéttarfélagsfundum, safna undirskriftum til stuðnings þeim á vinnustöðunum, aðstoða við að dreifa útgáfuefni þeirra, ef þörf gerist.

Hitt atriðið og nátengt er fjárhagslegur stuðningur. GSF á kost á stuðningi frá Nordisk Grafist Union, auk þess sem félagið á einhverja sjóði. En það dugar ekki og því þarf að koma til bæði söfnun meðal einstaklinga og stuðningur frá öðrum stéttarfélögum.

Þetta starf þarfnast skipulagningar - verkfallsstuðningsnefndar. Í slíka nefnd þarf að safna liði fólks, sem er reiðubúið að gera málstað grafískra að sínum á grundvelli þess að barátta þeirra er tilraun til að brjóta á bak aftur kjararánsstefnu ríkisvalds og atvinnurekenda. EIK(m-l) munu hafa frumkvæði að stofnun slíkrar nefndar á næstu vikum, gerist þess þörf.

Ritnefnd.

## Þrír seldu Verkalýðsblaðið

Ég hljóp á mig í síðasta STALDRAÐ VIÐ, þegar ég sagði að enginn hefði selt Verkalýðsblaðið 21.ágúst. Þetta var rangt. Ég varð að fara burt um það leyti sem útifundurinn var rúmlega hálfnaður, en eftir það munu einir þrír hafa dregið upp úr pússi sínu Verkalýðsblöð, þ.á.m. bæði formaður og varaformaður EIK(m-l). Eftir stendur þá, að Verkalýðsblaðið var ekki selt við tékkneska sendiráðið né í kröfugöngunni. Og það stendur líka, að við gerum allt of lítið af því að láta blaðið okkar sjást - og sjást vel - á mannamótum í miðbænum, við stórverslanir og í húsum. Bætum úr því!

Finnur.

## Hvað getum við gert?

framh. af baksíðu

niður í viðtöl sem kanadíska blaðið "The Forge" átti við víetnamska flóttamenn þar í landi um ástandið í Víetnam og ástæðu flóttamannastraumsins.

## Maómyndir bannaðar

Ly Hai Duong segir:
"Fólk var tekið höndum fyrir það eitt að eiga andlitsmynd af Maó formanni eða Húa Guofeng eða fyrir að vera áskrifendur að kínverskum tímaritum. Fjölskylda þeirra var neydd til að undirrita skjal um að þeir hefðu gagnbyltingarsinnuð skjöl undir höndum".

## Peninga fyrir flóttanum

Ly heldur áfram:
"Það kostar 1.500 bandaríkjadala virði af gulli að komast burt frá Víetnam. Hvernig fór svona margt fólk að því að safna svo miklu fé? Jú, þar sem Víetnam er mjög fátækt land, verður fólk að hafa fyrirhyggju um framtíðina. Það er orðin venja, að fjölskyldur safni peningum. Einnig seldum við alla okkar eigur til að komast burt úr landinu"

## Sósíalismi í Víetnam?

Ly segir að lokum:
"Flestir flóttamannanna vita lítið um stjórnmál. Þar sem ríkisstjórnin hefur heilaþvegið fólk, halda flestir að þeir hafi búið við sósíalisma í Víetnam, og því eru þeir auðvitað á móti sósíalisma. En ég hef haft tækifæri til að læra ýmislegt um stjórnmál, og ég held að þetta sé ekki neinn kommúnismi.

Í sósíalismanum er gætt hags hinna fátæku og smábændanna. Í Víetnam er það þveröfugt."








# OKTÓBERBÚÐIN: Opnar í nýju húsnæði

Eins og lesendum Verkalýðsblaðsins er vafalítið kunnugt um hefur Októberforlagið ekki starfrækt neina verslun frá því í maíbyrjun er forlagið missti húsnæði sitt að Óðinsgötu 30. Síðan hafa forlagsmenn leitað að nýju húsnæði en illa gengið. VBL. frétti fyrir skömmu að þessari löngu göngu Október væri lokið. Tíðindamaður blaðsins spurði einn forsvarsmanna hvað hæft væri í þessu.

-" Jú það er rétt, þetta er búin að vera ljóta eyðimerkurgangan. Hvað eftir annað hefur "eitthvað" brugðist á síðustu stundu. Allavega tveir leigusalar voru það hreinskilnir að segja hreint út að þeir leigðu ekki fólki með okkar skoðanir. Örugglega var þetta hin raunverulega ástæða í fleiri tilfellum þó aðrar væru nefndar. Kommúnismi hugnast ekki leiguokrurum og slíkum svíðingum".

-"En leitin hefur þó borið árangur nú, ekki rétt?"

-" Jú, við höfum nýverið leigt húsnæði á horningu á Frakkastíg og Grettisgötu, Frakkastíg 14. Staðurinn er að ýmsu leyti góður en húsnæðið sjálft nokkuð illa farið þannig að vinna við innréttingar og slíkt er nokkuð tímafrekt. Sú vinna stendur nú yfir".

-" Og hvenær verður svo opnað?"

-" Það verður um miðjan þennan mánuð en endanleg dagsetning liggur ekki fyrir né heldur opnunartími. Við auglýsum þetta allt nánar fljótlega. Ég vil þó nota þetta tækifæri til að hvetja alla fróðleiksfúsa lesendur blaðsins til að gæta vel að auglýsingum frá okkur því okkur hefur borist mjög margt nýtt efni meðan á lokun hefur staðið og allir ættu að geta fundið eitthvað við sitt hæfi.

# „Vinstri" í eitt ár

"Ríkisstjórn vinnandi stétta" er orðin eins árs. Það er viðtekin kenning innan forystu Alþýðubandalagsins að allar ríkisstjórnir sem AB á þátt í séu "vinstri" stjórnir og þjóni hag hins vinnandi manns, en þegar AB er utan stjórnar heitir það hægri stjórn, stjórn peningavalds og Bandaríkjadindlar.

## Hver er raunin?

Það féllu mörg stór og falleg orð og fagur stjórnarsáttmáli var gerður fyrir ári síðan. Það átti að rífa þjóðarskútuna upp og setja nýja stefnu í átt til velferðar og stöðugs efnahags. Efnahagsmálin áttu jú allan forgang. Enginn skyldi ganga með skarðan hlut frá borði. Með verkalýðshreyfinguna sem bakhjarl og víðtækt samráð við"aðila vinnumarkaðarins" skyldi ekkert lát verða á sókninni gegn innrás verðbólguófreskjunnar.

Og síðast en ekki síst skyldi nú gerð mikil bragarbót á kjörum hinna lægst launuðu.

Það er algjör óþarfi að skrifa hér upp hinn langa lista yfir sjúkdóma þá sem hrjáð hafa auðvaldsþjóðfélagið íslenska og það sjá líka flestir að sjúkdómarnir hafa ekki hlotið lækningu heldur hafa þeir ágerst og orðið umfangsmeiri og verri.

Það er ekki úr vegi á árs afmæli læknasveitarinnar að nefna það, henni til hróss, að hún er öll sammála um að lækna þarf sjúklinginn. Á þessu sér AB flokkur "sósíalistanna" engan meinbug. Flokkurinn er e.t.v. sá ákafasti í lækningsaðgerðunum og beitir fyrir sér miklum ítökum í verkalýðshreyfingunni. Meðalið ~~karx~~ sem notað er og gefist hefur best getur kallast Sátt og samlyndi stéttanna, en gengur undir heitinu stéttasamvinna meðal verkalýðssinna og er illt meðal. Þetta meðal var notað strax frá upphafi þessarar ríkisstjórnar, og það var notað raunar í verulegum mæli áður.

## Hvað á að gera?

Það þykir lítil viska að lækna áfengissjúkling með áfengi. Ríkisstjórnin með AB innanborðs ætlar að lækna rotið auðvaldsskipulagið með rotnum aðgerðum. Hún segist ætla að bæta kaupmáttinn og hækkar þá vöruverðið. Hún segist ætla að minnka verðbólguna og stýrir svo öllu í aukna verðbólgu.

Í stað þess að láta vandamálstal stórpólitíkusa og samráð forystu verkalýðshreyfingar við ríkisvald og atvinnurekendur hræða sig frá réttlátum mótaðgerðum ætti framsækið verkafólk að láta verulega í sér heyra. Það ætti að fara að dæmi Grafíska sveinafélagsins og gera kröfur um a.m.k. hluta af því sem því ber. Þegar þvílíkar árásir á kjör og aðra hagsmuni alþýðunnar dynja yfir eins og gerst hefur undanfarna mánuði - kaupbinding og niðurskurður í heilbrigðis og félagsmálum - þá er nóg komið. Rödd reiðinnar verður að brjótast undan því þunga fargi sem á hana er lagt með t.d. ólýðræðislegum aðferðum forystunnar í verkalýðshreyfingunni.

Sú afmælisgjöf sem er verðug ríkisstjórninni nú er að allt sjóði upp úr á vinnumarkaðinum. Vinnandi fólk verður að grípa í taumana til þess eins að bjarga eigin skinni. Látum burgeisana og stórpólitíkusana hafa það að bjarga sínum vanda - gróðanum, sem þeir kalla svo fínu nafni sem afkomu þjóðarbúsins, - því sá vandi er ekki okkar vandi. Þeir velta hins vegar sínum vanda yfir á okkur með því að lækka við okkur launin og skerða sjálfsögð réttindi okkar til heilbrigðis - og félagslegrar þjónustu og viðhalda þannig gróða sínum. Það er víst að peningamennirnir og ríkisvaldið standa saman gegn launafólkinu. Og því ekki að láta þá finna fyrir því?

Elli Þ.



I þessu húsi við Austurvöll er séð um að "verðbólguófreskjan" hafi nóg að bíta og brenna.

# EIK(m-l) hylla baráttu Erítrea

Framkvæmdanefnd miðstjórnar EIK(m-l) sendi kveðjur til fundar ELF-samfylkingarinnar í tilefni 18 ára artíðar þjóðfrelsisbaráttunnar í Erítreu. Þjóðfrelsisöflin hafa nú snúið vörn í sókn eftir framsókn herforingjaklíkunnar í Eþíópíu, sem er dyggilega studd af Sovétríkjunum, Kúbu og fleiri undirlægjum Kremlarkeisaranna. Í kveðju sinni lögðu EIK (m-l) sérstaka áherslu á nauðsyn og mikilvægi einingar milli ELF og EPLF - samtakanna tveggja sem berjast fyrir frjálsri Erítreu.

GERUM STÉTTARFÉLÖGIN AÐ BARÁTTUTÆKJUM

**Viðtal við Þórð Björnsson, varaformann Grafíska sveinafélagsins**

framh. af forsíðu.

# „Við teljum rétt að reyna frjálsa samninga"

## Framvinda málsins er óljós

Þórður taldi ógerlegt, að segja til um framvindu mála. Hann sagði:" Við munum halda áfram með vakta- og yfirvinnuverkfallið, en eins og staðan er nú eru líkur á samningum engar. Til að það breytist, verður hugsunarháttur forystumanna VSÍ að breytast. Rökstuðningur VSÍ fyrir því að vilja ekki semja, er annars vegar, að aðrir launþegar hafi ekki fengið meira en 3%, en hins vegar

Þórður:" Við lýsum furðu okkar á hörðum aðgerðum VSÍ þar sem aðgerðir okkar hafa verið takmarkaðar og ná aðeins til 20 manna. Við teljum forkastanlegt að fara útí verkbann, án þess að verulega hafi verið reynt að leysa vandann. Verði af því að verkbann verði boðað á aðra hópa en okkur, sýnist mér, að VSÍ ætli að reyna að neyða málið í gerðardóm. Það mundi sýna skýrt viljaleysi atvinnurekenda til að gera frjálsa samninga.

Ég vil sérstaklega benda á frétt Dagblaðsins (veggblað) 6. þ.m. um að bókaútgef-



Þórður Björnsson, varaformaður GSF

vilja þeir að öll félög prentiðnaðarins semji saman, þ.e. HÍP, Grafíska sveinafélagið og bókbindarafélagið. En þetta seinna prinsipp hafa þeir sjálfir brotið, því í sumar sömdu þeir við HÍP og bókbindara, en sendu okkur síðan seinna bréf og buðu okkur það sama".

## Vinnubrögð VSÍ eru forkastanleg

Um yfirvinnubannið sagði

endur hafi hug á að láta prenta jólabækurnar erlendis. Í þessu sambandi vil ég undirstrika að engar aðgerðir hafa verið boðaðar af okkar hálfu til að hindra prentun hér heima. Vakta vinnuverkfallið nær aðeins til dagblaðanna, auk einnar vélar í Kassagerðinni og einnar prentvélar í Umbúðamiðstöðinni."

## Stéttarfélögin eiga ekki að samþykkja kjaraskerðingar

Um launastefnu ASÍ og ríkisstjórnarinnar, sagði Þórður: " Við teljum, að bæði ASÍ og ríkisstjórnin hafi misst sjónar á hagsmunum hins almenna launþega í landinu. Og á meðan ASÍ berst ekki fyrir því að verja kaupmáttinn

og samningsréttinn, gengur GSF ekki inní ASÍ. Frá ASÍ hefur ekkert heyrst um stuðning. Hins vegar styður HÍP okkur og við höfum fengið stuðning frá stéttarbræðrum okkar erlendis.

En ég vil vona að ASÍ breyti um stefnu og fari að berjast fyrir launþega. Að lokum vil ég segja: við munum berjast áfram fyrir okkar og að samningsrétturinn verði virtur í framtíðinni."

# Nokkur orð um Grafíska sveinafélagið

Það hefur víst ekki farið fram hjá mörgum að Grafíska sveinafélagið á þessa dagana í harðvítugri kjaradeilu við atvinnurekendur. Vakta- og yfirvinnubann félagsins hefur þegar staðið yfir í viku þegar þetta er skrifað, dagblöðin eru hætt að koma út stjórnmálaflokkunum til armæðu og verkbann og víðtækt samúðarverkbann vofir yfir grafískum sveinum og kollegum þeirra í prentiðnaðinum.

En hvað er Grafíska sveinafélagið? Af hverju vilja þeir nú brjótast út úr ASÍ/VSÍ-samflotinu stóra?

## Grafíska sveinafélagið

Grafíska sveinafélagið var stofnað í mars 1973 þegar tvö félög, Prentmyndasmiðafélag Íslands og Offsetprentarafélag Íslands, ákváðu að rugla saman reitum sínum, félagsmönnum til hagsbóta.

Hvorutveggja iðngreinin, prentmyndagerðin og offsetprentunin eru ný af nálinni. Það sést best af tvennu: Grafískir sveinar eru tiltölulega fáir - 107 voru félagsbundnir um síðustu áramót. Jafnfram er geysihröð fjölgun í stéttinni, um síðustu áramót voru 39 nemar á meistaranámssamningi auk a.m.k. 9 verknámsskólanema í Iðnskólanum í Reykjavík. Aukningin hefur orðið mest á síðasta áratug. Upp úr 1968 varð gerbylting í prentiðnaði erlendis með tilkomu ljóssetningarvéla og á þessum árum hefur orðið sannkölluð offsetvæðing hérlendis sem ekki er enn séð fyrir endann á.

Ekki hefur mikið farið fyrir grafískum sveinum fram til þessa, einkum og sér í lagi vegna þess hversu þeir hafa verið smáir og kjarabarátta þeirra vakið litla athygli. Nú hefur hins vegar orðið breyting á, dagblöðin hafa tekið upp offsettækni við útgáfu sína og öll meiriháttar prentun í landinu er nú unnin af offsetprentúrum.

## Aðdragandi deilunnar

Grafískir sveinar hafa í kjarabaráttu sinni á umliðnum árum einkum átt samleið með kollegum sínum í Hinu íslenska prentarafélagi og Bókbindarafélagi Íslands. 1974 háðu þessi félög meiriháttar kjaradeilu við atvinnurekendur. Verkfall Grafíska sveinafélagsins stóð þá í 7 vikur.

framh. á bls.7

# Björn Þórhallsson, formaður stjórnar Dagblaðsins er einnig formaður Landssambands íslenskra verslunarmanna

Verkalýðsblaðið hefur oft skrifað um stéttasamvinnuna. Þau skrif hafa gjarnan verið almenn en dregið lítið fram í dagsljósið.

Nú getum við dálítið bætt úr þessu, því að aðgerðir Grafíska sveinafélagsins hafa dregið einn af forystumönnum vinnandi fólks í sviðsljósið. Þessi maður er Björn Þórhallsson, formaður Landssambands ísl. verslunarmanna. Björn er um leið formaður stjórnar Dagblaðsins, sem ásamt öðrum atvinnufyrirtækjum hefur boðað verkbann á grafíska félagið og í framhaldi af því á fleiri hópa. Komi það til framkvæmda, nær það einnig til hóps verslunarmanna.

Blaðamaður Verkalýðsblaðsins hafði samband við Björn. Aðspurður taldi Björn, að kæmi til verkbanns í framkvæmd, gæti það bitnað á verslunarfólki, sem ynni á blöðunum. Hann benti þó á að samstarf blaðanna og félaga verslunarmanna væri með ágætum.

Hann taldi, að verslunarmannafélögin hefðu ekki fyrirhugað að svara aðgerðum VSÍ á neinn hátt, en nefndi þó að mögulegt væri að styrkja þá sem lentu í verkbanni.

Hann taldi aðgerðir Grafíska sveinafélagsins vera framúr stefnu, þetta væru vandræði á röngum tíma, enda þvert á launastefnu Alþýðusambandsins. Þá benti hann á að þetta leiddi til þess að ýmsir aðrir hópar lentu í erfiðleikum.



Björn Þórhallsson, formaður Landssambands íslenskra verslunarmanna



Björn Þórhallsson, stjórnarformaður Dagblaðsins

Blaðamaður spurði Björn, hvort ekki væri erfitt að gegna formennsku í LÍV og vera um leið formaður stjórnar Dagblaðsins. Hann svaraði því til að það gæti verið erfitt að samræma þetta. En Dagblaðið yrði að beygja sig undir verkbannið.

# Hlaupatík peningavaldsins

"Það er afskaplega erfitt að halda að sér höndum, þegar svona fámennur hópur veldur jafn miklum truflunum í atvinnulífinu og útlit er fyrir ef ekki verður samið í þessari deilu," segir Magnús H. Magnússon hægrikrati og ráðherra í viðtali við nýútkomið fréttablað þriggja

Heimdallskra framagosa. Það þurfti ekki að spyrja að, jafnskjótt og eitthvert félag sýnir tennurnar og vill berjast fyrir rétti sínum, þá er bandingi atvinnurekenda, félagsmálaráðherrann, þotinn upp með yfirlýsingar um hitt og þetta. Hann hótar ekki lagasetningu í

þetta sinn - ekki beinlínis. Hann er að hita sig smám saman upp og byggja upp almenningsálit með því að ýja að nauðsyn þess að ríkisvaldið grípi inn í vinnudeiluna.

Við þurfum að sýna Magnúsi í verki að þótt þess konar yfirlýsingar dugi einusinni, þá duga þær

ekki tvisvar. Íslensk alþýða á ekki erfitt með að sjá að yfirlýsingar Magnúsar þjóna atvinnurekendum en standa þvert gegn stéttarhagsmunum verkafólksins, hvort sem það er í GSF eða öðru stéttarfélagi.

Brjótum fylkingu peningavalds og ríkisstjórnar á bak aftur. Styðjum GSF!

# STALDRAÐ VIÐ

"..... að verkalýðsstéttinni hefði komið betur að eiga sér fremur lítinn en harðan kjarna baráttufólks" - sagði Óskar Garibaldason frá Siglufirði.

Á vinnustað mínum hefur talsvert verið rætt um sjónvarpsviðtalið við Óskar Garibaldason á Siglufirði. Ég hef fúslega tekið þátt í þeim umræðum, því að ég var svo sannarlega hrifinn. Ekki aðeins af málflutningi og skoðunum Óskars, heldur ekki síður af því hvernig þátturinn allur tók afstöðu með verkafólki. Það var ekki síst Birni Þorsteinssyni stjórnanda þáttarins að þakka. Með öðrum spyrjanda með aðra afstöðu og annan tilgang með viðalinu, hefði vafalaust mátt gera þáttinn mærðarlegan og væminn. En Björn fær þó ekki að sleppa alveg án gagnrýni. Mér fannst hann tala ívið of mikið sjálfur og segja hluti í frásögn, þar sem skemmtilegra hefði verið að heyra Óskar skýra frá.

SÖMU LAUN OG FÉLAGARNIR

Ég ætla annars ekki að gera neina úttekt á þessum ágæta viðtalsþætti. Mig langar hins vegar til að leggja út af tveimur atriðum, sem fram komu í viðtalinu.

Hið fyrra varðar þau laun sem Óskar hefur hlotið fyrir verkalýðsmálastörf sín. Hann lýsti því yfir að hann hefði sem starfsmaður verkalýðsfélagsins aldrei þegið hærri laun en þau laun sem honum og félaginu tókst að semja um fyrir félagana. Og hann sagði einnig að hann teldi að það væri rangt af þeim forystumönnum verkafólks sem tækju hærri laun.

Líklega hafa ýmsir hinna stóru og litlu verkalýðspáfa svitnað undan þessari ádrepu. Það er orðin löngu viðtekin venja í fjölmörgum stéttafélögum, að foringjarnir séu á alls konar jötum. Auk þess þiggja þeir bitlingalaun fyrir nefndasetur samningafundi o.fl. Alls kyns spilling hefur þróast í skjóli þessa.

Orð Óskars Garibaldasonar hetjunnar úr verkalýðsbaráttunni á Siglufirði ættu að verða okkur almennum félagsmönnum stéttafélaganna hvatning til baráttu gegn aðferðum forystunnar.

"....AÐ ÞESSU MUNDU FYLGJA FLEIRI ÚTÞYNNINGAR"

Hitt atriðið, sem ég ætla að rífa úr samhengi sínu og gera mér að tilefni til skrifa eru orð Óskars Garibaldasonar, fyrrum félaga í Kommúnistaflokki Íslands um þann atburð, er flokkurinn var lagður niður árið 1938 og Sósíalistaflokkurinn stofnaður. Óskar sagði eitthvað á þá leið, að hann og fleiri félagar hefðu óttast það mjög, að þessi útþynning á stefnu flokkssinns yrði ekki sú síðasta, úr því sú þróun væri hafin. Það hefur reynst rétt. Óskar sagðist álíta að verkalýðsstéttinni hefði komið betur að eiga sér fremur lítinn en harðan kjarna baráttufólks í fylkingarbrjósti.

Já vissulega hafa útþynningarnar orðið margar á leið þessa flokks. Kommúnistaflokkur varð "Sósíalistaflokkur" - "Sósíalistaflokkur" varð Alþýðubandalag. Og nú eru Einar Olgeirsson og fleiri mektarmenn flokksins farnir að tala enn einu sinni um sameiningu Alþýðubandalags og Alþýðuflokks.

En útþynning er ekki bara nafnabreyting og sameining við flokka eða flokkabrot til hægri. Útþynning er endurskoðun á stefnu, felst í því að gera stefnuna minna í ætt við hagsmuni verkalýðs.

FORSETI EFTA Í ALÞÝÐUBANDALAGINU

Gott dæmi um útþynntan boðskap er að finna í opnuviðtali Þjóðviljans 1.sept. s.l. við nýkjörinn forseta EFTA, Svavar Gestsson. Þar fer Svavar á kostum við að afsaka allt það sem Allaballar hafa verið skammaðir fyrir af róttæku fólki að undanförnu. Við skulum gríða aðeins á tveimur gullkornum þessa viðtals.

„Kjör hinna lægst launuðu hafa í mörgum tilvikum batnað vegna ýmissa félagslegra ráðstafana sem við höfum komið gegnum þingið. Og það verður að skoða margt fremur en kaupið, þegar lífskjör eru metin. Til dæmis ættum við að gefa því meiri gaum, að verkafólk í framleiðslu hefur um langan aldur haft gífurlega strangan vinnudag. Og einmitt þessi mikla vinnuáþján hefur gert það móttækilegt fyrir þeirri neysluhyggju sem sífellt er verið að troða uppá okkur; því er kerfisbundið talin trú um að það geti keypt hamingjuna í formi steinsteypu og litasjónvarps. Gegn


Óskar Garibaldason


Svavar Gestsson

MANNAMUNUR

Já, það er mannamunur á Óskari og Svavari. Og hvor mér finnst betri mátt þú giska á lesandi góður.

En ennþá er það nú samt svo að gott fólk á borð við Óskar trúir og treystir á Alþýðubandalagið, þrátt fyrir galla þess og svik. Ennþá er það nú svo, að góðir menn og sannir sósíalistar treysta á menn eins og Svavar Gestsson, forseta EFTA. Það verður vonandi ekki lengi. Vonandi eignast gegnir sósíalistar einhvern tíma flokk sem er í ætt við það besta í kjarnann hans Óskars.

Finnur




# „Ákvörðun stjórna ríkisspítalanna ób

Segir Páll Sigurðsson ráðuneytisstjóri

Í lok júlí s.l. sendi Stjórnarnefnd Ríkisspítalanna frá sér svohljóðandi bréf, sem hengt var upp á öllum deildum spítalanna: "Vegna fjárhagsvandræða Ríkisspítalanna hefur Stjórnarnefnd ákveðið á fundi 26.júlí, að stöðva allar nýráðningar starfsfólks um sinn þar til komið er í heimilaðan fjölda á viðkomandi deild að viðbættum 7%". Samkvæmt opinberum upplýsingum nam starfsmannafjöldi Ríkisspítalanna 1.apríl s.l. 1897,89 stöðugildum en heimiluð voru aðeins 1582,4 stöðugildi. Síðan hefur verið sótt um heimild til fjármálaráðuneytisins fyrir 53 stöðum og þar af fengist vilyrði fyrir 30. Yfirlýsing Stjórnarnefndarinnar þýðir því, að stefnt er að fækkun starfsmanna, sem nemur 280 stöðugildum á næstu mánuðum

Verkalýðsblaðið hringdi í Pál Sigurðsson ráðuneytisstjóra í Heilbrigðisráðuneytinu, en Páll er einnig formaður stjórnarnefndar Ríkisspítalanna.

Við spurðum Pál fyrst að því, hvort sú ákvörðun stjórnarnefndarinnar, að stöðva allar nýráðningar, væri enn óbreytt. Páll kvað svo vera. Hins vegar hefðu sér ekki enn borist neinar skýrslur um það hve mikið hefði fækkað. Þetta væri framkvæmt þannig, að þegar fólk hætti á deildum með óheimilum stöðugildum væri ekki ráðið fólk í staðinn. Hins vegar yrði starfsfólk ekki fært á milli deilda, þannig að einhverjar nýráðningar yrðu, og gæti fækkunin því tekið nokkurn tíma.

Um 7% viðbótina, sem nefnd er í tilkynningu stjórnarnefndarinnar, sagði hann að hún væri fyrst og fremst hugsuð til að mæta tímabundinni fjarveru starfsfólks, sem alltaf væri eitthvað um s.s. vegna fæðingarfría eða veikinda. Gert væri ráð fyrir, að á vinnustað væru



Þórir Helgason, arkitekt:

# POTTÞÉTT SKIPU

Eftir eins árs "vinstri" stjórn í Reykjavík, var maður farinn að bíða eftir nýju stefnunni í skipulagsmálum. Og svo birtist hún loksins, og heitir: "Þétting byggðar".

Ég hef reynt að kynna mér þessa hugmynd, en get ekki fundið neitt sniðugt við hana. Það sem liggur að baki þessu skipulagi virðist fyrst og fremst vera mikill sparnaður fyrir borgina. Nú er Alþýðubandalagið orðið aðili að stjórnun Reykjavíkurborgar, sem er stærsta fyrirtæki í borginni, og sem allir góðir atvinnurekendur, þá hugsa þeir ætíð um það eitt hvar er hægt að spara töluvert - í gatnagerð, skólp- og hitaveituleiðslum o.s.frv.

Annað sem liggur að baki hugmyndinni um "þéttingu byggðar" er að minnka fjarlægðir innan borgarinnar, þ.e. að koma í veg fyrir að borgin þenji sig út í allar áttir. Þenslan hefur leitt til öngþveitis, þar sem fjarlægðir aukast alltaf milli íbúðarsvæðis og vinnustaðar, þjónustu og verslana.

"Þétting byggðar" á að gerast á kostnað útivistarsvæða í Reykjavík, eða svæða sem gætu orðið útivistarsvæði með litlum tilkostnaði. Til þess að réttlæta þetta, þarf að færa fram sterk rök sem mér finnst að hafi ekki komið fram ennþá. "Þétting byggðar" er svar sem dugar skammt við skipulagsvandamálum Reykjavíkurborgar, hversu jákvætt sem það kann að virðast í fyrstu.

HÚS FYRIR HVERN?

Reynslan síðustu ár sýnir að þar sem byggt hefur verið á skikjum innanum núverandi byggð, þar er íbúðarverðið mjög hátt. Meðal byggingameistara er bókstaflega rifist um að fá að byggja á svona lóðum, og þar eru öll brögð notuð, sbr. Ármannsfellsmálið fyrir nokkru. Söluverð á nýjum íbúðum innan gamla bæjarins er mjög hátt, jafnan hátt yfir því sem er hægt að fá fyrir íbúð í Breiðholtinu. Nú er hinsvegar byggingarkostnaður hinn sami hvar sem er í borginni. Gróðinn fyrir þá sem byggja og selja þessar íbúðir er því mikill. Þess vegna eru þessar lóðir svo eftirsóttar. Það er fyrirsjáanlegt að rifist verður um bitan á svæðum sem á að "þétta", og það er fyrirsjáanlegt að þessar íbúðir verða mjög dýrar. Hver á að kaupa þessar íbúðir? Ekki fylgja hugmyndunum um þéttingu skipulags nein áform um það, hver á að fá að byggja þar. Mætti ekki vænta þess af vinstri stjórn, að hún gæfi t.d. verkamannabústöðum forgang, eða byggingasamvinnufélögum? Eða jafnvel einhverju nýju fyrirkomulagi sem gerir venjulegu fólki það kleift að eignast þak yfir höfuðið án þess að líða fyrir það í fleiri ár? Eða á núverandi fyrirkomulag að haldast þar sem borginn "matar" byggingarmeistara með góðum verkefnum og gróðavænlegum? Væri ekki kjörið tækifæri til að afhjúpa ítökin sem íbúðabraskarar hafa innan borgarkerfisins? Segja eins og er, að byggingameistarar stjórna, ekki einungis hvað á að byggja heldur líka hvernig og hversu hratt? Manni finnst að eitthvað slíkt væru verðugri verkefni fyrir "vinstri" stjórn, heldur en að benda á lóðir, sem eru hagkvæmar fyrir borgina fyrst og fremst.

"Þétting byggðar" er ein eins og véfréttarsvör við þeim vanda sem blasir við í skipulagi Reykjavíkur-

á hverjum tíma jafn margir starfandi og heimildir væru fyrir.

Páll sagði einnig, að það hefðu farið fram samningar við fjárveitingavaldið um að fá viðurkennd fleiri stöðugildi á Ríkisspítulunum en fjárlög gera ráð fyrir. Nýlega hefði fengist heimild fyrir 30 nýjum stöðugildum þar af 17 á Kópavogshæli.. Einnig væri stjórnarnefndin að reyna að fá heimildir fyrir 23 stöðum í viðbót, dreift um kerfið, en það hefði enn ekki fengist. Legðu þeir áherslu á að fá ofangreind stöðugildi inn í nýju fjárlögin.

Við spurðum Pál hvort hann teldi að spítalarnir gætu veitt sömu þjónustu og nú ef þessi fækkun yrði að raunveruleika. Hann svaraði því til, að meginástæðan fyrir þessum aðgerðum nú væri sú, að fyrri hluta ársins hefðu mun fleiri verið starfandi við spítalanna en áður hefði verið sagt að þyrfti. Eftirlit með slíkum ráðningum hefði ekki verið nógu hart. Tilgangurinn væri því fyrst og fremst að kanna hvort þörf væri fyrir allt þetta starfsfólk og hvort ekki mætti spara í launakostnaði. Samhliða þessu væri einnig í athugun t.d. hvort sú yfirvinna, sem unnin er á spítulunum, sé öll nauðsynleg, en hún er nú um 20% af launakostnaði. Fjármálaráðuneytið teldi að 14-16% væri hæfilegt hlutfall og væri því stefnt að því að finna leiðir til að draga úr yfirvinnu.

# ...rnefndar ...reytt“


Páll Sigurðsson
ráðuneytisstjóri

# Krefjumst fleiri stöðugilda

Fækkunin hefði áhrif í velflestum deildum spítalanna. Þar sem við bætist, að takmarka á yfirvinnu er ljóst að vinnuálag mun vaxa gífurlega og ýmsar deildir verða ekki starfhæfar. Með því að reka engan beinlínis, heldur aðeins fækka þegar einhver hættir, er reynt að draga úr andstöðu starfsfólksins. Þannig á smátt og smátt að auka vinnuálagið á þá, sem vinna á deildum með óheimiluðum stöðum. Viðtöl við starfsfólk þessarra deilda leiða hins vegar í ljós að þar verður ekki fækkað án þess að það bitni á þjónustu deildanna. Fækkun hefði í för með sér neyðarástand, sem yrði að mæta með aukinni yfirvinnu. Starfsfólk Ríkisspítalanna og allir þeir sem vilja að félagsleg þjónusta verði bætt en ekki skorin niður hljóta því að mótmæla þessum fyrirætlunum. Ennfremu að krefjast þess að veittar verði heimildir á fjárlögum fyrir þeim starfsmannafjölda, sem nauðsynlegur er til að tryggja mannsæmandi vinnuaðstæður og þjónustu við sjúklinga eða vistmenn

Með þeim 30 heimildum sem fengust í sumar er að vísu örlítið komið til móts við kröfuna um fleiri stöðugildi En það er langt frá því að vera nóg. Jafnvel Kópavogshæli, sem fékk úthlutað 17 þessarra stöðugilda, stendur enn mjög illa að vígi. Þar eru nú um 40 óheimilaðar stöður, eða fimmti hver starfsmaður. Enn er því brýn þörf á baráttu.


Til að minnka launakostnað hyggjast forráðamenn ríkisspítalanna fækka starfsfólki um hátt á þriðja hundrað. Það myndi óhjákvæmilega valda neyðarástandi á mörgum deildum spítalanna.




borgar. Útþensla miðbæjarins heldur áfram, fjarlægðir milli íbúða og vinnustaða, þjónustu og verslana halda áfram að aukast, þrátt fyrir lóðir innanbæjar, - og síðast en ekki síst verður jafn erfitt fyrir alþýðuna að eignast íbúðir - ef ekki enn verra.

# ...LAG, SIGURÐUR?

## Opið bréf til Sigurðar Harðarsonar formanns skipulagsnefndar Reykjavíkur

GÖMUL HVERFI OG LÓÐABRASK

Í Reykjavík er ennþá fyrir hendi töluvert af gömlum íbúðum, og rétt er að benda á þær einmitt í sambandi við þéttingu. Þessar íbúðir hafa verið mjög eftirsóttar, þó ekki sem íbúðir, heldur sem verslunarhúsnæði eða skrifstofur, og eiga þar "fjársterkir aðilar" hlut að máli.
Það er nánast útilokað fyrir venjulegt fólkt að ná í þessar íbúðir. Bæði verður fólk að keppa við uppskrúfað verðlag á markaðnum, og svo er ekki veitt nema mjög litlu fé í lánsformi til kaupanna, t.d. frá Húsnæðismálastofnun Ríkisins.
Þess vegna býr æ færra fólk í miðbænum. T.d. bjuggu þúsund manns í Þingholtunum árið 1940 en ekki nema 200 í dag. Þessi flótti heldur áfram. Með yfirlýst markmið um "þéttingu byggðar" liggur nær að spyrja: af hverju er ekki reynt að snúa þessari þróun við? Á norðurlöndunum eru víða lög, sem banna að íbúðarhúsum sé breytt til annarrar notkunar. Slík lög myndu vafalítið auka eftirspurn eftir þessum íbúðum. Nú þora fáir, þótt þeir geti að kaupa sér gamalt húsnæði, vegna ótta við að hverfið verði smám saman undirlagt af verslunum og bílastæðum. Af hverju er t.d. ekki reynt að breyta lánareglum Húsnæðismálastofnunar Ríkisins?

Ef eitthvað raunhæft væri gert í þessum málum, er víst að framkomnar hugmyndir um "þéttingu byggðar" á kostnað útivistarsvæða myndi geta beðið í mörg ár.
"Þétting byggðar" er svar við skipulagsvanda, sem ekki hróflar við neinu í núverandi skipulagi borgarinnar, svar sem bygginga meistarar geta verið mjög ánægðir með, og fjármálastjórn Reykjavíkur fagnar en fáir aðrir.

STRÆTISVAGNAR

Að lokum eitt mál, sem vafalaust hefur vakið furðu margra. Nýlega sótti SVR um hækkun fargjalda, sem ráðuneytið lagðist að hluta gegn. Þá var rokið upp til handa og fóta í borgarstjórn og lýst yfir samhljóða - að SVR þyrfti að fá umbeðna hækkun til að geta haldið uppi veiðeigandi þjónustu.

Nú er það þannig, að málefni strætisvagnanna hefur verið eitt mikilvægasta mál Alþýðubandalagsins um áraraðir, SVR þurfti að efla. En allt í einu virðast gömul íhaldsúrræði vera ofaná - einnig hjá Alþýðubandalaginu: SVR þarf að geta borgað sig!

Væri þetta ekki kjörið tækifæri til að halda í sömu fargjöld - sem í raun er lækkun - SVR myndi vafalaust eflast við það - og borgin myndi taka að sér útgjöld sem nema hækkuninni? Þetta myndi vera spor í þá átt að minnka fargjöld niður í ekki neitt. Með núverandi rekstrarsjónarmiðum er haldið áfram sömu stefnu og alltaf hefur ríkt: að halda uppi nauðsynlegri lágmarksþjónustu - og ekkert meira.

Freistandi er að spyrja: Hvort er dýrara fyrir borgina - aukin bílaumferð (gatnagerðir - slys - löggæsla - bílastæði o.s. frv.) eða meira tap á strætisvögnum? Vissulega er forstjóri SVR bróðir bílainnflytjenda - en það vekur furðu að andstaðan gegn bættri þjónustu SVR skyldi vera svo almenn sem raun ber vitni - hjá hægri mönnum sem " vinstri".

Þórir Helgason


MEISTARASAMBAND BYGGINGAMANNA
SKIPHOLTI 70 . REYKJAVÍK . SÍMI 36282

MEISTARAFÉLAG HÚSASMIÐA
MÚRARAMEISTARAFÉLAG REYKJAVÍKUR
MÁLARAMEISTARAFÉLAG REYKJAVÍKUR
FÉLAG VEGGFÓÐRARAMEISTARA Í REYKJAVÍK
FÉLAG PÍPULAGNINGAMEISTARA

Skipulagsnefnd Reykjavíkur,
Borgartúni 2,
Reykjavík.

TILV. YÐAR
BRÉF YÐAR
TILV. VOR GB/sj
DAGSETNING 15.1.'73.

Í því tilefni að nýafgreitt er skipulag fyrir Breiðholt II. viljum við hér á eftir benda á ýmis atriði sem er vægast sagt mjög ábótavant og varhugavert að dómi þeirra manna sem eiga að byggja húsin og í mörgum tilfellum að selja þau til væntanlegra íbúðaeigenda. Eru þessi atriði helzt:

1. Þakform þessara húsa er bæði dýrt í framkvæmd og óheppilegt.

2. Bygging bílskýla í byrjun framkvæmda er óheppileg.

3. Stærð og stærðarmismunur íbúða mjög neikvæð.

4. Stöllun húsa óheppileg, ef hún er ekki meiri en ráð virðist fyrir gert í skipulagi.

5. Óheppilegt að vera með saman, í lóðareiningu, býlishús og raðhús.

Stærð íbúða í ...

## Ef ekki með góðu þá . . .

Bréf þetta frá Meistarasambandi Byggingarmanna til Reykjavíkurborgar sýnir svo ekki verður um villst, hvaða starfsaðferðum þeir beita, fái þeir ekki skipulag eftir sínu höfði. Þeir neita einfaldlega að byggja!

Í þetta sinn var skipulagi breytt, nákvæmlega eins og þeir fóru fram á.

Byggingameistarar fá langstærstan hluta af lóðum undir íbúðarhús sem fyrir hendi eru í Reykjavík. Síðast fengu þeir heilt hverfi til að spreyta sig á í Seljahverfi í Breiðholti.

Byggingameistarar eiga fulltrúa í skipulagsnefnd Reykjavíkurborgar.

- Eiga byggingameistarar hauka í horni í borgarstjórn?

- Eru ný hverfi skipulögð vegna húsnæðisskorts eða beinlínis fyrir byggingameistara sem vanta verkefni?



## Samtökum óháðra ríkja ógnað af Sovétríkjunum og fylgifiskum þeirra

Leiðtogaráðstefna Samtaka Óháðra Ríkja (eða ríkja utan hernaðarbandalaga) var haldinn í Havanna á Kúbu nú í byrjun september. Ráðstefna þessi er líklega ein sú mikilvægasta í sögu Samtakanna, og snýst m.a. um grundvallarstefnu þeirra.

Vinirnir Brésneff og Kastró. Kúba er eitt aðalvopn Sovétríkjanna innan Samtaka óháðra ríkja - og berst fyrir því að gera samtökin háð Sovétríkjunum



# Undirróður sósíal heimsvaldsinna

Samtök óháðra ríkja voru stofnuð árið 1961 og voru aðildarríkin 25 í upphafi - nú eru þau 88 og fjölgar líklega um 3 á ráðstefnunni. Mikilvægi Samtakanna í þróun heimsmálanna hefur aukist jafnt og þétt - andstaða þeirra gegn hernaðarbrölti risaveldanna og hernaðarbandalögum er þýðingarmikill þáttur í baráttunni fyrir þjóðfrelsi og friði.

### Sovétríkin reyna að eyðileggja

Sovétríkin hafa reynt að eyðileggja þessa hindrun og í dag eru tilraunir Sovétríkjanna til þess að breyta Samtökum óháðra ríkja aðal hættan sem steðjar að þeim.

Til þessa starfs nýta Sovétríkin fylgispekt Kúbu og Víetnam. Kastró hefur lagt til að grundvelli samtakanna verði breytt og skilgreining á óháði verði önnur en nú er. Víetnamski fulltrúinn sagði á undirbúningsfundi fyrir Havannaráðstefnuna að "..Það væri ekki endanlegt markmið samtakanna að standa utan hernaðarbandalaga...."

Með starfi sínu reyna Kúba og Víetnam að fá samtökin til að lýsa andstöðu sinni gegn bandarískri heimsvaldastefnunni og "drottnunargirni" Kína - en Sovétríkin skulu vera yfirlýstur bandamaður óháðra ríkja. Auðséð er hversu hentugt það yrði fyrir sósíalheimsvaldasinnana í yfirgangsbrölti þeirra um allan heim.

Tónninn frá Moskvu í garð Samtaka óháðra ríkja er mjög kurteis þessa dagana. En áður fyrr voru þau nefnd "sundurleitur hrærigrautur" og fleira í þeim dúr. Einnig hafa málgögn Sovétstjórnarinnar reynt að deila aðildarþjóðunum í hópa - nefnd sumar "framsæknar" aðrar "afturhaldssamar".

### Tilraunir til að útiloka löglega stjórn Kampútseu

Skemmdarstarf Sovétríkjanna og fylgifiska þeirra kemur einna skýrast fram í tilraunum þeirra til að útiloka löglega stjórnvöld (Pol Pot stjórnina) í Kampútseu sem fullgildan aðila að samtökunum. Víetnam reynir allt hvað þau geta til að koma leppstjórn sinni í Phnom Penh á framfæri sem réttum fulltrúa Kampútseu. Framferði Víetnam - fyrst innrás og síðan myndun leppstjórnar - eru freklegt brot á grundvelli óháðu ríkjanna. Eitt af meginatriðum í stofnskrá samtaka þeirra er að ríki skuli ekki fara með ófriði gegn öðrum né skipta sér af innanríkismálum annarra.

Kúba - hin aðalhækja sósíalheimsvaldasinnanna - á núorðið litríkan feril á sama sviði. Kúbanskir hermenn fara um Afríku myrðandi í hverju ríkinu á fætur öðru - og þeir sem lenda öfugu megin við byssuhlaup þeirra eru "afturhaldsseggir" samkvæmt flokkum sem gerð er í Moskvu. Kúba hefur einnig sent hernaðarráðgjafa til Kampútseu til að aðstoða Víetnam við að útrýma þjóðinni þar.

### Andstaða gegn skemmdarstarfinu

Fjölmörg ríki hafa snúist til baráttu gegn skemmdarverkum Sovétríkjanna. fremstur í flokki er Tító Júgóslavíuforseti, en hann er eini núlifandi stofnandi Samtaka óháðra ríkja. Einn af leiðtogum Júgóslavíu Milos Minic, sagði nýverið að samtökin yrðu að berjast gegn tilraunum "sem miða að því að gera samtökin háð nokkrum bandalögum eða risaveldum og verja sjálfstæði og óháði hreyfingarinnar".

Kúba og Víetnam hafa bæði gert hernaðarsamninga við Sovétríkin og ennfremur leyft erlendum herjum að sitja í löndum sínum. Hvort tveggja er brot á sampykktum óháðu ríkjanna og orðið til þess að fram hafa komið tillögur um að reka bæði ríkin úr samtökunum. Norður Kórea hefur birt yfirlýsingu sem greinilega er beint gegn Víetnam og Kúbu. Þar segir m.a.: -Ríki sem lætur sjálfstæði sitt, fylgir einhverri valdablokk, og er undirgefið öðru landi, er tæplega hægt að skilgreina sem óháð ríki. -Há

(Heimildir: Unity, Gnistan, Xinhua)

## Fulltrúar Kampútseu ofsóttir af lögreglu Kastrós!

Tveir fulltrúar hinnar löglegu stjórnar Kampútseu mættu til Leiðtogaráðstefnu óháðu ríkjanna í Havanna. Allt frá komunni til Kúbu hafa þeir mátt þola ofsóknir yfirvalda Kastrós. Shan Youran, sem sækir ráðstefnuna ásamt Thiounn Prasith sendiherra Kampútseu hjá Sameinuðu Þjóðunum, lýsti aðförum Kúbustjórnar, fyrir sænsk um blaðamanni- hann sagði m.a. að lögreglan hindraði þá í að taka þátt í ráðstefnunni.

Í upphafi ætluðu þeir að sitja fund undirbúningsnefndar ráðstefnunnar - þar sem öll aðildarlönd samtakanna eiga rétt til setu. En lögreglan kom í veg fyrir þátttöku Shan Youran og Thiounn Prasith.

-" Kúbumenn hafa ekki gefið okkur neina skýringu á því hvers vegna við vorum hindraðir. Lögregluþjónarnir segjast bara vera að framfylgja skipunum" sagði Shan Youran.

Eftir mikið stapp tókst þeim að komast á Hotel Havanna Libre, þar sem þeim hefur tekist að ná sambandi við aðra ráðstefnufulltrúa og erlenda blaðamenn.

### Mótmæli

Fulltrúi Malasíu mótmælti þessari meðferð á fulltrúum Kampútseu - hann benti á að Kampútsea væri fullgildur aðili að Samtökum óháðra ríkja og væru fulltrúarnir í fullum rétti til að sitja nefndarfundina. Júgóslavía, Nígería, Sómalía, Malí, Súdan, Bhutan og Burma studdu mótmæli Malasíu. Ásamt Kúbu voru það Víetnam Eþíópía, Angóla og Laos sem vildu hindra Kampútseufulltrúana.

### Ofbeldi og innrás

Víetnam hefur hernumið hluta af Kampútseu og fer með eldi og eyðileggingu gegn landi og þjóð. Kúbustjórn og ýmis ríki sem eru orðin fylgihnettir Sovétríkjanna beita Kampútseu ofbeldi á vettvangi Sameinuðu Þjóðanna og Samtaka óháðu ríkjanna. Allt þetta eru skýr dæmi þess hvers eðlis sú stefna er sem Sovétríkin boða og framfylgja gagnvart þjóðum heims. Fasisminn sem ríkis heimafyrir í Sovétríkjunum er útflutningsvara Kremlherranna.

-Há



Khieu Samphan, foseti Kampútseu kom til Havana til að taka þátt í ráðstefnunni Kúbanskir lögreglumenn komu í veg fyrir að hann gæti rætt við blaðamenn.



Thiounn Prasith, sendiherra Kampútseu, annar fulltrúanna sem lögregla Kastrós ofsækir.

## Starf til stuðnings baráttunni gegn hernámi Víetnama á Kampútseu

30. ágúst s.l. var haldinn fundur í Félagsstofnun stúdenta um málefni Kampútseu að tilhlutan undirbúningshóps sem vinnur að stofnun stuðningsnefndar við baráttu Kampútseumanna gegn hernámi Víetnam. Tæplega 50 manns sóttu fundinn og hluti þeirra skráði sig til þátttöku í væntanlegu starfi. Á dagskrá fundarins var m.a. kvikmyndin sem Jan Myrdal ofl. gerðu um ferð sína til Kampútseu fyrir rúmu ári.

Eftir myndina urðu nokkrar umræður og fyrirspurnir sem Þorsteinn Helgason og Hjálmtýr Heiðdal svöruðu. Að mati flestra tókst fundurinn hið besta og lofar góðu um áframhaldandi starf.

Hægt er að hafa samband við hópinn í pósthólf 575 121 Reykjavík - eða í síma 75033 (Hjálmtýr) og 39332 (Þorsteinn).

Að lokum má geta þess að rúmar tuttuguþúsund krónur söfnuðust á fundinum - og hafa þá tæpar fimmtíu þúsund safnast til að kosta starfið.

## 25 þúsund kr. til Kampútseu

Á sumarbúðum Verkalýðsblaðsins var m.a. safnað fé til styrktar Kampútseu. Voru það krakkar, 7 ára og eldri sem stóðu fyrir söfnuninni. Þau söfnuðu um 25 þúsund krónum. Auk þess söfnuðu þau 40 þús. kr. til að greiða sérkostnað vegna barnanna á sumarbúðunum.



### AÐSTOÐUM VÍETNAMANA

Flóttamannafjölskyldurnar sem hingað koma frá SA-Asíu þurfa á margvíslegri aðstoð að halda. EIK(m-l) hvetja félaga sína, stuðningsmenn og alla þá, sem bjóða flóttafólkið vel komið til landsins að leggja eitthvað af mörkum. Til dæmis má gefa fé í söfnun Rauða krossins og Hjálparstofnunnar kirkjunnar, afhenda má vel meðfarin föt til RKÍ í Skipholti í Reykjavík og RKÍ vantar aðstoðarfólk til að taka á móti Víetnömunum. Gíró RKÍ og Hjálparstofnunarinnar er: 46000. Sími RKÍ er: 26722

## SKERFUR LESENDA

# Nokkrar ábendingar til Verkalýðsblaðsins

Mér hefur þótt blaðið standa í stað, hvað efnisval og efnistök varðar nú í talsverðan tíma. Ég tel umbúnað allan vera langt fremri innihaldi blaðsins. Það sem mér finnst vega þyngst á metunum er léleg blaðamennska. Í fyrsta lagi þarf að létta allt yfirbragð blaðsins með t.d. auknum viðtölum og konkret myndum. Í öðru lagi þykir mér vanta útsjónarsemi í fréttavali þ.e.a.s. mati á fréttnæmu efni. Og í þriðja lagi vantar stórlega upp á vandvirkni í meðferð frétta.

Tökum nokkur dæmi: Í 15. tbl. er meðhöndlað sjaldgæft fréttaefni þe. stéttardómur yfir farmönnum. Í vaxandi umræðu ráðandi aðila um skerðingu og jafnvel afnám verkfallsréttarins er þetta einstakt tækifæri, til að fjalla um meðhöndlun slíks dómstóls á launafólki. Einn farmaður sagði í viðtali við Þjóðviljann áður en dómur féll, að þeir hlytu að fá talsvert betri kjör væri þessi dómstóll réttlátur! Eitt er víst að Þjóðviljinn hafði ekki hátt um úrslit mála. Í staðinn fyrir að vitna í bókarkafla í grein VB., hefði átt að taka lögfræðinga tali, sem bera hag launafólks fyrir brjósti og fá fram umfjöllun sérfróðra um málið (fleiri en einn aðila) auk álits þolenda dómsins.

Sem dæmi um frekar yfirborðslega fréttamennsku vil ég nefna opnuna í 15. tbl. Þar er fjallað um olíumál af meiri leikmennsku og minna áhugavekjandi hátt en hjá mörgum hinna borgaralegu blaða. Dæmi um það er kaflinn um Rússlandsolíuna þar sem málin eru talsvert einfölduð. Þó er tilefnið ágætt og tilraunin virðingarverð.

Í 14. tbl. er grein um lýðræði, sem mér finnst talsvert einkennandi fyrir VB. Í fyrsta lagi finnst mér tilefni skrifanna lítið. Í öðru lagi finnst mér tilraunir til að útskýra flókið mál á alþýðlegan hátt mistakast. Greinin virkar svolítið brosleg að mínu mati vegna barnalegrar framsetningar. Þegar hið borgaralega lýðræði er tekið fyrir í blaðinu þarf það að vera í sambandi við annað efni sem þá væri aðalefni.

Ég vil líka nefna meðhöndlun deilunnar um Jan Mayen. Mér finnst verulegra sleggjudómu gæta í garð Sovétríkjanna. Allir vita að Sovétríkin eiga gríðarlega mikinn flota og þeirra skerfur á fiskimiðunum því ekki lítill. Flotinn hefur verið kallaður "ryksugufloti" með réttu. En varðandi Jan Mayen þá hefur VB oftar en einu sinni hrópar, að á meðan Noregur og Ísland sláist éti Sovétríkin upp auðæfi hafsins í kringum Jan Mayen. Morgunblaðið sem lætur sinn hlut ekki eftir liggja, þegar segja þarf eitthvað um Rússa, hefur rétt minnst á að sovésk skip séu á veiðum í kringum Jan Mayen og þá ávallt utan 200 mílnanna eða á þeim mörkum. Nefnt hefur verið að A-Evrópsk skip hafi farið inn fyrir 200 mílurnar (þó afar fá - 2 að ég held) grunuð um að vera á höttunum eftir síld. En aldrei hefur verið nefnt að sovésku skipin hafi verið á höttunum eftir öðru en kolmunna! Þessi fréttamennska þjónar þeim tilgangi einum að gera annað sem skrifað er um Sovétríkin minna trúverðugt Hún lætur stjórnast af óskhyggju en ekki staðreyndum. Þessi orð eiga einnig við um klausuna um Ólaf R. Grímsson í 15. tbl. Hættan af sovéska flotanum er vissulega fyrir hendi en hefur ekki orðið að raunveruleika - og á meðan svo er ber okkur að tala um hættuna sem möguleika en ekki staðreynd. Ég vil einnig benda á að í þeim löndum þar sem byltingin eða þjóðfrelsisstríð er í gangi og erlend blöð hafa blaðamenn á staðnum að nota þeirra efni hrátt eins og gert var í 15. tbl. (viðtalið við tékkann). Þetta lífgar svo lifandi skelfing mikið upp á.

Ég hef nú að mestu beint spjótum mínum að þeim sem blaðið skrifa. Ég tel það lífsspursmál fyrir blaðið hvort úr rætist. Það er ekkert sem heitir að geta ekki séð eftir starfskröftum í þessi störf því blaðið er lífsgrundvöllur samtakanna. Kjörorð ritnefndar ætti að vera töff og áreiðanleg fréttamennska sem tekur fyrir á lifandi hátt baráttumál alþýðunnar.

Með baráttukveðjum frá Hveragerði

# Leyniþjónusta Ísraels felldi Andrew Young

## — afsögn endurspeglar vaxandi erfiðleika Bandaríkjanna í Miðausturlöndum



- Leyniþjónusta Ísraelsmanna í New York hleraði samtal Youngs og áheyrnarfulltrúa PLO hjá S.Þ. Zehdri Labib Terzi.
- Frásagnir um fundinn voru síðan opinberaðar í Newsweek.
- Young þurfti að segja af sér vegna óbeinna þvinganna ísrelskra mektarmanna í Washington og þrýstings frá Tel Aviv.

Þetta eru meginorsakir að baki afsagnar Andrews Youngs, fulltrúa Bandaríkjanna hjá Sameinuðu Þjóðunum, en hann sagði af sér að beiðni Carters þann 15. ágúst s.l.

Dagblaðið Georgia Constitution segir að fundurinn hafi átt sér stað í sendiráðsbústað Kúwaits á Manhattan, þann 26.júlí s.l. - en það var einmitt Kúwait sem lagði fram tillögu í S.Þ. þess efnis að réttur Palestínumanna sem fullvalda og sjálfstæðrar þjóðar verði virtur.

Sendiherra Ísraels hjá S.Þ., Blum að nafni, tilkynnti Young að samtal hans og fulltrúa PLO yrði birt opinberlega, og var það gert í blaðinu Newsweek.

### Young mikilvægur fyrir Carter

Young var mjög mikilvægur maður í stjórn Carters. Young tryggði vinsældir hans meðal blökkumanna í Bandaríkjunum. En mest hefur hann þó unnið við að lappa upp á andlit Bandaríkjanna í 3.heiminum. Sem blökkumaður var honum kleift að gera pólitík Bandaríkjanna trúverðuga víða í Afríku. Carter hefur sjálfur látið í það skína, að Young eigi heiðurinn að bættum samskiptum Bandaríkjanna við mörg lönd, þó aðallega í 3.heiminum.

### Stuðning við PLO

En Young gerði meira. Á blaðamannafundi þann 14. ágúst, eftir að fundur hans við fulltrúa PLO varð kunnur, gerði hann grein fyrir, að fundurinn hafi verið skipulagður að ásettu ráði af hans hálfu og hann liti svo á, að nauðsynlegt sé fyrir Bandaríkin að viðurkenna PLO, til að koma á friði í Miðausturlöndum. Young hlaut skammir bæði frá Carter og Cyrus vance, untanríkisráðherra, fyrir þessa skoðun sína; en Young ítrekaði afstöðu sína og varð því að segja af sér.

### Vandi Charters vex

Vandi Carterstjórnar er margþættur. Bandaríkin hafa löngum stutt Ísrael dyggilega, allt frá stofnun þess árið 1948. En Bandaríkin eru háð olíuinnflutningi frá Arabalöndunum og stuðningur þeirra við Ísrael hefur oft verið þungur baggi á þeim viðskiptum. Einnig er ljóst að Ísrael notar bandarísk vopn í deilum sínum við araba.

Fyrr eða síðar munu Bandaríkin neyðast til að viðurkenna palestínsku þjóðina. Eitthvað verða þeir að gera til að "redda" andliti sínu útá við, jafnframt því sem þetta er eina leiðin til að stuðla að friði í Miðausturlöndum, og það fer að verða brýnt fyrir Bandaríkin.

# Nokkur orð um...

framh.af bls.3

Á næstu árum, 1975, ´76 og ´77 fylgdu þessi félög samfloti ASÍ - en þó hafði GSF þá sérstöðu að hafa ekki aðild að Alþýðusambandinu. En félagið skar sig ekki úr.

Beinn aðdragandi að núverandi kjaradeilu hefst með kjaraskerðingarlögunum, sem ríkisstjórn Geirs Hallgrímssonar setti í febrúar 1978. Þá sýndi Grafíska sveinafélagið strax þá sérstöðu að neita að taka þátt í verkfalli ASÍ og BSRB 1. og 2. mars - enda taldi félagsstjórnin með réttu að hér væri um flokkspólitíska aðgerð að ræða en ekki verkfallsaðgerðir sem hefðu þann tilgang að fylkja saman verkafólki í raunverulega baráttu gegn kjaraskerðingunni. GSF sagði þó upp launaliðum kjarasamnings síns í samræmi við önnur stéttarfélög.

Eftir að vinstri stjórnin hóf feril sinn var stefna félagsins að láta reyna á hana - "bíða og sjá". Vísitöluskerðingunni 1.des. ´78 var þó harðlega mótmælt á félagsfundi og samþykkt að segja upp samningum. Uppsögn kjarasamningsins var þó ekki boðuð fyrr en eftir setningu Ólafslaga í maí s.l. - eins og lesendum VB er kunnugt. Ólafslögin urðu í augum GSF sá dropi sem fyllti bikarinn. Nú var fullreynt að "vinstri stjórnin" var engu verkalýðssinnaðri en fyrri stjórn. Það var ekki eftir neinu að bíða og búið að sjá það sem sjá þurfti. Í millitíðinni boðuðu vinnuveitendur til allsherjarverkbanns í "samúðarskyni" við Óttar Möller og kumpána í farmannadeilunni. GSF var eina stéttarfélagið í landinu sem svaraði því á viðeigandi hátt og hótuðu að slá dagblöðin úr höndum atvinnurekenda ef af verkbanninu yrði.

### Staðan í dag

Grafíska sveinafélagið er á vissan hátt múrbrjótur. Það hefur ekki látið þrælalög á farmenn aftra sér og það hefur ekki látið vinnudeilur mjólkurfræðinga og matsveina, sem fengu lítið út úr samningum, draga úr sér kjark. GFS hefur hvorki lagt fram óbilgjarnar né svimandi kjarakröfur. Það vill samninga til 1.sept. á næsta ári, vísitölubindingu í samræmi við fyrri samninga og auk þess vill það ná upp þeirri kjaraskerðingu sem "vinstri" - stjórnin hefur staðið að í áföngum á einu ári, sem þýðir u.þ.b. 20% hækkun. Auk þess hefur félagið lagt fram þá sjálfsögðu kröfu að yfirborganir á taxta félagsins, sem nema að meðallagi 40-50%, verði teknar inn í launataxtana. Þetta eru allt kröfur sem sjálfsagðar eru og nauðsynlegt er fyrir öll önnur verkalýðsfélög að taka upp.

Vinnuveitendur hafa þverneitað öllum tillögum og neitað að semja um annað en 3% til áramóta. Þeir hafa jafnframt gengist í því að stigmagna deiluna með allsherjarverkbanni á GSF f.o.m. 11.sept. og "samúðar"verkbann á hátt í þúsund manns síðar meir. Allt stéttvíst verkafólk og öll verkalýðshreyfingin verður að leggja GSF lið. Barátta þess fyrir réttlátum samningum er hagsmunamál allrar vinnandi alþýðu. Útkoman úr þessari kjaradeilu mun hafa mikil áhrif á hvað koma mun úr samningum annarra stéttarfélaga. Ef atvinnurekendum tekst að beyja GSF, "binda það" eins og Þorsteinn Pálsson orðaði það í sjónvarpsviðtali, fái atvinnurekendur að leika lausum hala með svívirðilegar verkbannsaðgerðir sínar - þá verður erfitt að sækja á brattann eftir áramót.

Jan Mayen

## Að viðurkenna ekki norska lögsögu er að virða ekki sögulegan rétt norskrar alþýðu

# Meira um söguna

Nokkur blaðaskrif hafa orðið um sögu Jan Mayen. Tilgangurinn virðist vera sá að sanna eignarrétt Íslands á eyjunni. Saga samskipta Íslands og Jan Mayen er ekki löng og lítið um feita bita sem fært geta stoðir undir þá staðhæfingu að Jan Mayen sé íslensk.

### Á sá fund sem finnur?

Víst er það rétt að til eru sagnir um að íslenskir sægarpar hafi fundið land í norðri og kallað það Svalbarð. Margt bendir til þess að um Jan Mayen hafi verið að ræða. Sægörpum þessum leist ekki betur á landið en svo að þá fýsti ekki að fara þangað aftur. Enda þótt svo hafi verið að íslenskir sægarpar hafi fundið Jan Mayen á undan öllum örðum, þá sannar það ekki eignarrétt Íslands á eyjunni - eða gildir í þessu að sá á fund sem finnur? Ef svo væri gætum við farið að gera rökstuddar kröfur um yfirráð yfir Ameríku - við höldum því fram að íslenski sægarpurinn Leifur heppni Eiríksson hafi fundið Ameríku á undan öðrum. (Þá er að sjálfsögðu ætíð horft framhjá frumbyggjum Ameríku).

Pétur Guðjónsson hefur í mörgum greinum í Dagblaðinu haldið fram eignarrétti Íslands á Jan Mayen með þunnum rökum. Hann bendir á fund íslensku sægarpanna og að auki að dönsk-norsk kúgun o.fl. hafi komið í veg fyrir að íslendingar héldu eyjunni og nytjuðu hana. Það má vel vera rétt hjá Pétri. En á meðan íslendingum var haldið frá eyjunni um aldir voru sægarpar og veiðimenn frá mörgum þjóðum iðnir við að stunda Jan Mayen. Það er gangur sögunnar og eplið er súrt fyrir okkur, en við verðum að bíta í það fyrir því.

### Sjö landnámsmenn

Í sögu siglinga í Norðurhöfum er getið um sjö skipstjóra sem gert hafa kröfu til þess að vera kallaðir landnámsmenn á Jan Mayen. Það var fyrst og fremst tvennt sem varð til þess að eyjan varð þekkt. Leitin að Norðvesturleiðinni og veiðar á Grænlandshval.

Áður en eyjan fékk nafnið Jan Mayen hafði hún verið kölluð ýmsum nöfnum. Hvalveiðarinn Thomas Marmaduke gaf henni nafnið Trinity Island árið 1611. Hollendingurinn Jan Cornelisz May var á slóðum eyjarinnar á sama tíma og segir frá því í skýrslu til Noordsche Compagnie í Amsderdam. Árið 1614 kom hollendingurinn Jan Jacobsz May til eyjarinnar á tveim skipum. Sá skýrði eyjuna Mauritius, en eyjan var kölluð eftir skipstjóranum sjálfum Jan Mayen. Baskin Jean Vroliq nefndi eyjuna Isle de Richelieu. Önnur nöfn sem gengu um eyjuna voru Pica, Den Hoogen Berg og Mr. Joris Eylant.

### Eftir miklu að sækjast

Á 17.öldinni voru hvalveiðar hreinasta stóriðja. Bæði hollendingar og bretar voru mikið við hvalveiðar við Jan Mayen og veiddu vel af þessu dýrmæta hráefni. Hollendingar voru fyrstir til að koma upp föstum búðum í landi, við Maríu Muss vík.

Ef við gefum hollendingum heiðurinn af fyrstu búsetu á Jan Mayen, þá verðum við að gefa böskum heiðurinn af því að yfir höfuð var hægt að drepa hval þarna. Þeir voru sérfræðingar þessara tíma í meðferð á skutlum. Baskar voru sóttir frá Biskayaflóa og mönnuðu hvalveiðiflota hollendinga. Baskar voru líka með eigin skip við Jan Mayen.

Árið 1632 rændu tvö baskísk skip hollensku stöðina. Skip þessi voru gerð út af dönskum útgerðarmanni. Næsta vetur settu hollendingar sjö manns til vetursetu til að verja stöðina. Þeir dóu allir af skyrbjúg. 1642 var lítið sem ekkert unnið í stöðinni og hún lögð niður. Næstu 200 árin voru hvalveiðimenn á ferli umhverfis eyjuna, en notuðu hana ekki til búsetu.

Árin 1820-30 fara skútur frá Tromsö í N-Noregi að sækja til Jan Mayen til selveiða. Selveiðar norðmanna héldust óslitið alla þá öld og þessa líka. Fyrst í stað var veitt á fastaísnum við eyjuna en síðar mest í Vesturísnum - rekís við Jan Mayen. Um aldamótin hófust veiðar á bláref á Jan Mayen. Þessar veiðar voru eingöngu stundaðar af norðmönnum.

### Vísindamenn á ferðalagi

Frá því um 1850 voru gerðir út margir vísindaleiðangrar til Jan Mayen.

Norski Norðurhafsleiðangurinn 1877 framkvæmdi ekki neinar umfangsmiklar rannsóknir á eyjunni, en þá var það verk unnið að staðsetja eyjuna nákvæmlega. Á hinu alþjóðlega pólarári 1882-83 kostaði austurrískur fursti mikinn leiðangur til Jan Mayen. Leiðangursmenn byggðu sér stöð í Maríu Muss vík. 14 manns höfðu vetursetu og framkvæmdu miklar vísindarannsóknir. Þessi stöð austurríkismanna stóð síðan auð þar til norskir refaveiðimenn tóku hana í notkun.

Árið 1900 gerði norska hafrannsóknarskipið "Michael Sars" fyrstu fiskifræðilegu rannsóknirnar við Jan Mayen. Engin fiskigengd fannst.

### Liður í atvinnusögu

Saga Jan Mayen segir að eyjan og umhverfi hennar hafi verið um langan tíma liður í atvinnusögu Noregs. Hún segir líka að aðrar þjóðir hafi ekki haft umfangsmikil og samhangandi samskipti við Jan Mayen og norðmenn.



## Ísland á mikilla hagsmuna að gæta

Hver er staða Íslands í Jan Mayen málinu? Við höfum bent á það í Verkalýðsblaðinu að engin haldbær rök séu fyrir því að Ísland geti eignað sér lögsögu yfir Jan Mayen. Í því efni er staða Noregs allskýr. En það þýðir þó ekki að Ísland hafi engra hagsmuna að gæta eða að Ísland hafi ekki nein réttindi.

### Miðlínan og sanngirnisreglan

2oo mílur Íslands og Jan Mayen falla saman á allstóru svæði. Löngum hefur slíkt verið leyst á alþjóðavettvangi með því að skipta með miðlínu, þ.e. til helminga milli landanna. Síðari árin hafa hins vegar aðrar reglur komið fram og eru þær m.a. teknar með í drögum að hafréttarlögum S.Þ. Þessar reglur kveða á um að það landið sem meiri hagsmuna hefur að gæta skuli fá meiri réttindi, að það skuli halda sínum 2oo mílum óskertum. Að auki er mikill meirihluti þjóða fylgjandi því að auðæfum hafsins sé skipt af sanngirni milli þeirra landa sem eiga hagsmuna að gæta, þ.e. að tillit sé tekið til þess hve mikilvæg nýting hafsins sé fyrir viðkomandi land.

Þessi atriði veita Íslandi mikinn meðbyr í Jan Mayen málinu. Þau eru líka í samræmi við hagsmuni alþýðunnar í báðum löndunum. Samkvæmt þessum reglum ættu norðmenn að gefa eftir í kröfunni um gildi miðlínu og viðurkenna fullar íslenskar 2oo mílur. Auk þess ættu norðmenn að opna veiðisvæði fyrir íslenskum skipum. Magn það sem íslensk skip veiddu yrði miðað við hvort tveggja, mikilvægi veiðanna fyrir íslenskt atvinnulíf og fisktegund þá sem verið er að veiða,þ.e. hver uppruni stofns sé og stærð hans.

Enda þótt íslendingar eigi ekki langa sögu að baki við veiðar við Jan Mayen, þá er ómögulegt að horfa fram hjá því að lífríkið á öllu hafsvæðinu er nátengt og skilt. Þeir fiskistofnar sem eru Íslandi lífsmikilvægir halda sig ekki aðeins innan íslensku 2oo mílnanna, heldur ferðast um stóran hluta N-Atlandshafsins. Það er aðeins sanngjarnt að þau lönd sem ekki byggja á fiskveiðum nema að sáralitlu leiti taki tillit til þessarar sérstöðu Íslands. Þessi sanngirnisregla hefur nú byr í seglin meðal þjóða heims. Á þessu verða íslenskir stjórnmálamenn að byggja í kröfugerð sinni gagnvart norðmönnum, en ekki þjóðrembingi.

### Jan Mayen og ríkistjórnin

Ríkisstjórnarflokkarnir hafa nú í sumar verið í óða önn að efna til þjóðernisæsings og plægja jarðveginn fyrir nýtt land helgisstríð og undirbúa landakröfur.

Ekki er erfitt að koma auga á tilganginn. Ríkisstjórnarflokkunum er mjög í mun að beina athygli almennings frá buddunni og sköttunum og láta reiði hans bitna á einhverjum öðrum - helst norðmönnum. Íhaldið hefur nauðugt viljugt orðið að taka þátt í þessum leik, til að missa ekki af lestinni og fá á sig óorð um óþjóðhollustu.

Nú hefur dagblaðaverkfall Grafískra sveinafélagsins gert vonir ríkisstjórnarinnar að engu. Kjarabaráttan, skattarnir og verðbólgan er á ný komin í sviðsljósið og við skulum vona að það haldist.



Skip víetnamskra flóttamanna sekkur í sjó við Malasíu. Slík hafa örlög þúsunda flottamanna orðið.

### Flóttamennirnir frá Víetnam

## Hvað getum við gert?

Hundruð þúsunda Víetnama hafa verið reknir á brott frá föðurlandi sínu. Örlög "bátsfólksins" hafa vakið samúð um allan heim. Þúsundir flóttafólks hafa verið reknar út í opinn dauðann og drukknað. Þessar hörmungar teygja anga sína alla leið til Íslands. Hingað kemur á allra næstu dögum dálítill hópur þessa ógæfusama fólks til að setjast hér að. Við skulum taka vel á móti þeim. Ekki af meðaumkvun og samúð einni saman, - heldur skulum við viðurkenna rétt þessa fólks, til að lifa mannsæmandi lífi, og viðurkenna skyldu okkar sem betur búum til að láta okkar af mörkum. Þess vegna skulum við einnig taka öflugan þátt í landssöfnun Rauða Krossins og Hjálparstofnunar kirkjunnar til styrktar flóttafólkinu í SA-Asíu.

Flóttamannastraumurinn frá Víetnam hefur valdið geysilegum vandamálum í SA-Asíu. Harðast hefur þetta bitnað á Kína, sem tekið hefur á móti 250 þús. víetnömskum flóttamönnum, Malaysíu og öðrum 3. heimsríkjum svæðisins., sem hafa tekið á sig að fæða og klæða þessa miklu flóðbylgju fólks. Vandamálin hafa náð þvílíkum vexti, að margir fréttaskýrendur hafa líkt þeim við vandamálin vegna Gyðingaofsókna Hitlers-nasista á sínum tíma.

En hvað er að baki ástandsins í SA-Asíu? Við höfum birt ýmsar greinar í Verkalýðsblaðinu um orsakir þessa á undanförnum mánuðum. Ástæðulaust er að endurtaka það. Við skulum heldur grípa

framh. bls.2


| | |
|---|---|
| 1 árs áskrift: kr. | 3000 |
| 1/2 árs áskr.: - | 1750 |
| Til útlands : - | 5500 |
| Stuðningsáskr: - | 5000 |

Áskrift greiðist á gíró 12200-9

VERKALÝÐSBLAÐIÐ